# Um
# bibliunnar guddómliga myndugleika,

útlagt úr engelsku af útgéfaranum.

---

1. Heilög ritníng hefur á öllum öldum verid af gódum mönnum álitin og medtekin fyrir **himneskan opinberadan lærdom.** — Nafnid **Biblia** þýdir eina **bók**, og hún er svo nefnd í einni hátignar-merkíngu, sökum þess hun er sú ypparsta allra bóka, og vid hvörja eingin einasta kann í samjöfnud takast.

Hun er **bók Guds**, géfin af hönum daudligum mönnum, til ad sýna þeim hans vilja, og kénna þeim veiginn til hans. Hún er kölluð **Guds bók**, því hann hefur hana sjálfur í brjóst blásid, þeim sem hana fyrstir í rit færdu; þad er: hann hefur minnt þá á einn og sérhvörn þánka, sem í henni finst. Svo er þá vissuliga, fyrir mannkynid, óseiganliga mikid á því rídandi, ad þad sannfærist um, hvört biblian sé ein **Guds bók**, edur ecki.

2. Þad er alkunnugt og rétt ad seigja af öllum þjódum trúad, ad mönnum þörf sé á einni

guddómligri opinberun. Og þess eru mikil lîkindi, ad von sú, sem margir menn — jafnvel heidíngjar, alid hafa, um ad heimurinn mundi eina þvílíka sæl- ast, hafi bygd verid á einhverjum vísbendíngum, géfnum af sjálfum Gudi, á öndverdum heims aldri, um ad hann vildi, á síðari tímum, enn nú full- komligar opinbera sjálfan sig. Þad er og víst, ad margir, medal ýmsra þjóda, hafa viljad innbirla fólki, ad þeir hafi hafi gudligan innblástur, um hvörja menn, á eptir, komist hafa ad raun um, ad svikarar verid hafa. En þessir lognu vitnis- burdir um gudligan innblástur, meiga því heldur leida oss til ad trúa, ad þar hljóti þá einhvör sú opin- beran til vera, sem í raun og sannleika guddómlig sé; — því menn géta ecki forfalsad þá hlúti, sem aldrei hafa til verid; til dæmis: ad einginn gjæti sá verid, sem falska peníngamynt tilbyggi, ef þar hefdi aldrei nein gód og gild peninga mynt til- verid. Allir ærligir menn, sem bera þá sönnu bibl- íunnar opinberun saman vid þær fölsku, munu finna, hvörsu þær, hjá henni, eru vanfafullar, ósamhljód- andi, og rétt þreifanliga upplognar og fráleitar.

3. Þad er líka athugaverdt, ad öll þaug rit, sem lognar opinberanir innihalda — og enda allar heimsins bækur yfir höfud, eru ecki nærri svo gamlar sem sumar af biblíunnar heil. bókum; — já, og jafnvel ad adrar bækur, sem slíkan falskann lærdóm innihalda, stadfesta þó og sanna, í mörgum tilfellum, þann historiska hluta ritníngarinnar.

4. Biblían er og stakliga merkilig fyrir þad, hvörsu allir hennar lærdómar og fráásögur svara svo vel sjálfum sér innbyrdis; — svo eitt merkiligt gudligt skáld tekur þarum þannveg til orda:

«Hvadan, nema frá himnum sendir helgir menn
gátu þad verid — adrir enn
ólærdir, sem — á veraldar vissu vyrdtust líd?
á alda fæddir ýmsri tíd;
í ýmsum stødum líka lifdu, en lærdóm þann
sømdu, er hljóda saman kann.
Samhljódar, já sýnilig med sannleiks skil,
frá upphafi bókar enda til.
En hvörnig skyldi heiløg ritning hafa þá
samhljódun, vel er merkjast má?
En vera þó diktud, vist í raun, ad villa þjód;
lýgin ei fetar slíka slód.
Einkum þar menn, sem unnu þetta, erfidid
uppá sig tóku óbedid;
vissu þó sín af verøld' mundu verda ráð
illa þeigin og øll forsmád;
ábatinn mundi einginn verda annar sinn
enn osssókn kvalanna ýfrid stinn;
ja lokfins sér mundi búinn bani og bitur raun.
Mun lýgin sækja' um svoddan laun?"

5. Ad biblían sé guddómligs uppruna og myndugleika, sannast bædi af því, hvad lærdómar hennar gódir eru, og líka af þánkamáta og sidferdi hennar ritara. Lærdómar hennar eru himneskir,

og ritararnir hafa berſýniliga af guddómligum innblástri fullir verid. Í ordfæri hennar liggur þvílík hátign og voldugleiki, ad eingin maunlig mælskukonst kann ſvo hátt ad ſtíga. Sérhvør partur hennar, nær hann réttiliga ſkilinn verdur, er ſvo dásamliga ſamhljódandi ſjálfum ſér og því heila, er ſvo hreinn og heilagur, og allt í honum, frá upphafi til enda, ſtefnir til þeſs ſtóra verks endurlauſnarinnar, hvørt evangelíum bodar, og hvørt ed gjørir ſvo óvidjafnanliga æru nafni þeſs mikla og voldugа ſkapara. Í henni kunngjøriſt, ad einn endurlauſnari, allrar vidtektar verdugur, ſé opinberadur, fyrir hvørs medalgaungu og fridþægíngar fórn, jafnvel þeir ſtærſtu ſyndarar, kunni ad fá fyrirgéfníngu, an þeſs ad kaſta hinni minſtu nidrun á Guds heilaga løgmál, edur ad géfa nockurt tilefni til framhaldandi yfirtrodſlu. Guds dýrd margfaldaſt í hæſtum hædum, undir eins og fridur er á jørdu úthrópadur, og velþóknan Guds útbreidiſt til ſekra syndara. Paradauki verdur oſs líka ſvo í ritníngunni bodadur einn bleſſadur helgari, til ad hreinſa oſs frá øllum ſaurugleika, og til ad endurnýa oſs í anda vors hugſkots, til ad gjøra oſs hæfa til eilífrar gledi og ſameiníngar med Gudi, og til ad géta notid þeſs ſæta ſamfélagsſkapar med øllum heiløgum. Og — mun nú ſlík opinberan, um frelſun frá ſøk og ránglæti, hafa gétad verid eintómar grillur eins innbirlíngafulls heila, edur ſvika ſamſpuni eins ljúganda táldragara? O! hvílík fjarmæli!

6. Slíkt kann því eingaungeiginn vera uppáfinníng mannligs vísdóms, nema það kunni sannað verða, að gagnstæðustu hlutir, svo sem ljós og myrkur, sannleikur og lýgi, géti sameinast og samhljóða ordið; vegna þess að lærdómar og boðorð ritníngarinnar eru öldúngis mótstrídandi setníngum mannligs vísdóms, og þaraðauki spilltum tilhneigíngum syndugra manna; þar ritníngin fordæmir þá hluti á hverjum þeir hafa mesta eptirlæti, en heldur fram þeirri farsæld og lucku, i hverri þeir eingan smeck finna, og um hverja þeir sér einga sanna ímíndun gjört géta. Hóldligt sinnislag álítur suma hennar lærdóma heimsku, því hún skilur ecki þá hluti, sem Guði tilheyra, og ei heldur kann einn óendurfæddur madur þá að þeckja, vegna þess þeir hljóta andliga að dæmast. Heimsliga þeinkjandi menn forsmá biblíuna, hata hana og setja sig — ef þora —. henni á móti. Einn syndaþénari vyrdir hana minna, og undirniðri hefur ama á henni, framar enn öllum ödrum bókum, sökum þess hún mótstrídir hans drambsemi og fordæmir hans athæfi. Þeir vondu offækja tídum þá, sem elska ritnínguna, lasta þá og hæda, og láta fjandskap gégn þeim í ljósi, á hvern hátt, sem þeir géta. En þetta allt leidir þó bersýniligustu rökfemd að sannleika ritníngarinnar; því það er oss í henni fyrirfram sagt, að svóleidis muni tilgánga, og vér sjáum það og svo algjörliga rætast. Allt þetta sannar, án alls efa, það bók þessi er eingar manna smídar.

7. En setjum ad menn skyldu hafa uppdiktad biblíunni, hvada menn skyldu þad þá verid hafa? Annadhvort hefdu þad hlotid ad vera vondir menn edur gódir. En þeir fyrstnefndu kynnu aldeilis ecki ad hafa uppfundid hana; því vondir menn hefdu aldrei uppspunnid þá lærdóma og bodord, sem væru svo gagnstæd þeirra eigin tilhneigíngum og breitni. Aldrei mundu þeir hafa samid þá bók, sem segdi heiminum, ad þvílíkir menn, sem þeir eru, mundu straffadir verda eilífliga í helvíti. Svo kynnu ei heldur gódir menn ad hafa diktad einni bók af sínum eiginn heila, og seigja þó fólki, ad diktur þeirra væri ord og rádleggíngar lifanda Guds.

8. En framar sjest þad, ad Gud er biblíunnar höfundur; af þeirri umforgun, sem hann borid hefur fyrir hennar vidhaldi. Hans dásamligi kraptur og óendanligi vísdómur hefur vardveitt hana í gégnum svo margar aldaradir, þó menn og djöflar hafi öllum brögdum beitt, til ad eydileggja þessi heil rit og afmá þaug hreint úr veröldunni; en allar tilraunir þeirra, til ad nidurþrickja þeim, hafa þó til ónýtis ordid. Hvorki svikrædi þeirra né ofbeldi hefur viljad luckast, þó þeir hvorttveggja, þessara vopna, hafi svo þráfamliga gégn ritníngunni brúkad.

9. Hvörsu skélfiligir Guds strBffunar dómar hafa tídum fallid yfir hennar ofsækendur? Hlustum til þess sárgrætiliga vísdveins þess deyjanda kóngs Antiochi; hvöred, eptir þad hann hafdi ofsókt gyd-

lyga, og brent þeirra heilögu bækur, deydi med þeim ógnarligustu harmkvælum, og játadi ad þaug væru réttlætis hefnd þess allra hæsta yfir sér. Sjáid keysara Diocletian, hvör ed dæmdi christinna manna biblíu til bálsins, hvörsu hann þvíngadur vard til ad seigja sig frá thróninum, vard sídan einn embættislaus madur, og deydi smánarligum dauda. En biblían er þó, allt til þessa dags, eingu ad sídur dásamliga vardveitt og er aldeilis ósférdt vid lídi, til skammar og skélfíngar öllum efurum og vantrúudum.

10. Þessvegna hlýtur þad þá ad hafa verid Gud, en ecki menn, sem vardveitt hafa bók þessa. Nýja-testamentid, hvört ed inniheldur Jesú trúarbrøgd, fyrirbýdur oss ad útbreida þaug med kúgun og sverdi, þvert á móti því sem tyrkjum er bodid af sínum Mahómeth, ad útbreida Kóraninn, sem er þeirra trúarbragda bók. Kóngar og stjórnendur hafa neytt størstu vidleitni til ad eydileggja hana; en sjá! hún hefur eingu ad sídur yfirlifad alla sína fjandmenn; og ecki einasta þad, heldur hrósad kostuligasta sigri, midt í hinum grimmustu og óvægustu ofsóknum.

11. Framveigis hefur biblían orkad þess, ad gjöra þá, sem henni trúa, hughrausta gégn daudanum, ja, rétt dansandi af fögnudi midt í þeim grimmustu písium. Einn af þeirra töln hrópadi upp, midt í bálinu, og sagdi: «mér vyrdist nú, sem eg liggi á einni sæng af rósum!» Þúsund

margir hafa ofurgéfid sinn líkama til ad brennast á bjørtu báli, edur til ad pínast á annan hátt, med óumrædiligum og óteluligum kvølum. Sama djørfúng og hugrecki hefur sig í ljósi látid hjá fólki svovel kvennkyns sem kallkyns, já sérhvørs aldurs, stjettar og stands. Seig mér nú, mun nockur hlutur, nema almáttugur Guds kraptur, hafa kunnad ad gjøra þá svo hughrausta, midt í þeim skélfiligustu píslum og þjáníngum?

12. Já, ecki einúngis þetta, heldur hafa christin trúarbrøgd, rétt eins og eitt himneskt sædi, sád af sjálfs Guds eigin hendi, blómgast betur undir ofsóknunum en ella; svó píslarvottanna blód hefur verid þeim, eins og ein hagkvæm gródrardøgg yfir nýsáinn akur. Þaug tilfelli hafa géfist, ad sjálfir bødlarnir og mordíngjarnir, sem, deiginum fyrir, høfdu settir verid til ad kvelja og lífláta píslarvottana, fyrir Jesú nafns sakir, urdu, af þeirra eptirdæmi, svo sannsærdir um þeirra trúarbragda sannleika, ad þeir, deigi sídar, gjørdust píslarvottar vegna sømu trúarbragda.

13. En framar ad seigja: hefdu þad verid samantekin manna rád, ad falsa Guds hønd, med ad liúga upp títníngunni, hvørnig kémur þad þá til, ad ecki einasti einn af slíkum mønnum hefur opinberad þad undirferli? Hvør tilgángur kynni ad hafa komid mønnum til, ad brugga svoddan táldrátt, hvar þeir fáu sér þó ecki annan ábata vid, en forsmán, fángelsi, píslir og dauda? Mundi

ecki einhvör einn hafa séd eptir fyrirtæki sínu, og komid upp undirferlinu, til þess ad fría sig frá kvölum og líflati? Eda mundu lygarar og hræsnarar semja eina bók svo hreina og svo heilaga sem ritníngin er, og sídan vilja þola allskins kvalir og hardidgi til ad forsvara hana? Mundu þeir hafa gétad haft þá konst til ad bera, ad sýnast svo ærligir, ad gjöra sína historíu svo öldúngis tilgjördarlausa, ad láta hana hafa svo guddómligt útlit, og stadfesta hana sídan í öllu med þvílíkum lifnadarmáta, sem einginn einasti gat, med réttu, lýtt edur lastad — og þeir skyldi þar á ofan gjöra og géta gjördt þetta, midt í því sjálfir þeir þó ecki trúdu sinni eigin historíu, heldur vissu vel ad hún var uppspunninn diktur, ur þeirra eiginn heila? ad trúa, ad þvílíkt skyldi nockrum manni möguligt vera, er sú vitlausasta trú af öllum villudóms trúarbrögdum!

14. Sinnislag og breitni sjálfs Júdasar Iscariots meddeilir þá sterkustu röksemd uppá evangelii sannleika. Eda hvörnig kom þad til, ad hann fyrst sveik sinn herra, og vard sídan á eptir stúnginn af samvitsku-biti svo frekt, ad hann gjördi enda á sínu eigin lífi, med ad heingja sjálfan sig? Hvörnig kom þad til, ad hann skyldi álíta sig sjálfan sekan um þá verstu synd, þar hann þó, ef Jesús hefdi svikari verid, vissi sig, med því ad forráda hann, gjöra eina réttlætis velgjörd heiminum til handa, med ad frelsa hann frá þvílíkum manni; svo þetta

verk Júdasar hefdi ecki einasta ecki þurft ad auka hönum nockra samvitsku órósemi, heldur jafnvel þvert á móti uppíylla hann innvortis gledi, fyrir medvitund stærsta gódverks. Því ef Jesús hefdi eck; xeynndar verid þad, sem han sagdist vera, þá vann h. nn vissuliga til allra þeirra kvala og dauds daga, sem Júdas olli ad yfir hann kom, og jafnvel til en verta. Nú ef þar verid hefdi nockur lýtablettur, nockurt slæmt augnamid edur nockur tegund af undirferli í Jesú fari, hefdi Júdas, sem svo leingi lifad hafdi í samfélagi med Christo, og hverjum trúad var fyrir sépyngiunni (sem sýnir ad eckert var gjerdt á laun vid hann), og hver ed var svo kunnugur öllum Jesú heimugliga lifnadar-máta, hann, segi eg, hefdi vissuliga hlotid þad ad vita; og hefdi hann haft vitneskiu um nockurt tál edur óheilindi á Jesú sídu, bar hönum ad seigja þar frá, og hann mundi þad lîka sannarliga gjört hafa — því skyldan vid Gud, vid sína eigin samvitsku og vid veröldina skuldbatt þar til. En þögn. hans í þessu tilliti, er málsnjallasta vitni um Jesú sanuleika, og hans ógnarligi dauddagi sannar Jesú guddómliga mindugleika.

15. Med því enn framar ad líta til Jesú þeinkíngar- og lifnadar-máta, vilda eg spyrja: var þad mögugligt fyrir han ad sýna sig svo heilagan, og svo frían frá öllum synda lýtum; mundi hann gánga um kríng í Gydíngalandi, þola allskonar stort, og láta þó í ljósi eina áhyggjulausa og óaf-

látanliga umforgun fyrir mannanna velferd, er hann fýndi, med því ad lækna þeirra líkami, og uppfræda þeirra sálir; var þetta mögulígt fyrir hann, seigi eg, en vera þó undir eins hinn versti svikari sem jördin borid hefur — hvad hann vera hlaut, ef hann ecki var Messías, þad er Gud og madur og heimsins endurlausnari?

16. Hér vid bætist þad, ad Christur og postular hans (svovel sem margir af gamla testamentisins skrifurum), stadfestu lærdóm sinn med jardteikna gjördum; edur med því ad framkvæma svo furdulig verk, sem vóru á móti öllum vanaligum reglum náttúrunnar. Þessi kraptaverk vóru opt framin í augsýn mikils fjölda af áhorfendum; og var þá mögulígt, ad þar skyldu nockur brögd í tafli vera, þegar fjöldi vitna sá, til dæmis, einn daudan gánga út af því kalda grafarinnar fánaefli? Þúsund áhorfendur, sem voru svarnir óvinir Christi og hans lærdóms, vidurkéndu þó ovmberliga, ad merkilig kraptaverk framin vóru (sjá gbók 4, 16.), ad haltir voru látnir gánga, blindir sjá, málllausir tala, og svo fr. v. Þessir óvinir kunnu nú hvörki ad neita verkunum, sem skédu, né verda varir nockurra bragda í þeim, enda þó þeir stædu uppyfir og horfdu á, þegar þaug framin vóru. Hvörnig kunni þetta ad ské? gátu þad þá verid eintómar sjónhverfíngar? öldungis ecki! En ef þad vóru sannarlig kraptaverk — svo sem þad í raun og sannleika var;

mundi Gud þá hafa léd almætti sitt til ad þéna augnamidi eins svikara?

17. Loksins verdur guddómligur uppruni og myndugleiki ritníngarinnar stadfestur med uppfyllíngu þeirra spádóma, sem minst verdur, bædi í því gamla og nýa testamenti. Mundu menn edur djöflar géta séd inní þad dimma afgrunn ókominna hluta? Eda mundi Gud uppljúka bók sinna huldu vísdóms álykta, til ad opinbera sína leyndardóma svikurum edur villumönnum, til ad stadfesta villulærdóma þeirra med? Ádgjætum, til dæmis, hvörsu spádómar ritníngarinnar í gamla testamentinu, um eydileggíngu Egyptalands, Nínívés og Babýlóns eru uppfylltir! Sjáum hvörsu gamla og nýa testamentid dásamliga samhljóda, og skodum hvörsu þess gamla testamentis spádómar eru uppfyltir í því nýa, einkum og sérdeilis í tilliti Messíæ. Aldeilis ómöguliga kann nú þetta ad vera sjálft uppdiktan; vegna þess ad gydíngar, sem hast hafa gamla testamentid í sinni geymslu, laungu frá því fyrir Christi daga, allt til þessa, hafa verid, og altíd eru christindómsins grimmustu fjandmenn. Þetta gjörir þad ómöguligt öllum ad ímynda sér, med allra minstu líkindum, ad spádómarnir hafi af christnum tilbúnir verid, og útgénir fyrst eptir þad tilburdirnir, er þeir fyrirsögdu, skénir vóru; því hvörnig áttu christnir ad géta komid sínum verstu óvinum — gydíngunum til ad medtaka þá, og halda þá fyrir gamla spádóma? Sannarliga, ef annad-

hvært spádómarnir, edur þeirra uppfyllíng, hefdi biktad verid, mundu gydíngar ei hafa slept því tækifæri, ad opinbera slíkt og útbreida christnum til skammar.

Sømuleidis er þad skéd, ad þeckjanlig tilfelli hafa framkomid í heiminum, samhljódandi spásøgnum þeim, sem finnast í sjálfu nýa testamentinu. Já, spádómar þeir, sem þad inniheldur, eru í uppfyllíngu, jafnvel á þessum døgum. Til vitnisburdar þar um er vardveitsla gydínganna, sem eins adgreinds fólks frá ødrum þjódum, midt í því adrar mikid margar mektugar þjódir, frá fyrri øldum, eru øldúngis tapadar, svo ad ecki einn einasti fær med vissu sagt, hværjir þeirra afkomendur séu. Eingin ad sídur hefur þessi eina þjód, hvør þó hlotid hefur ad lída stakliguslu hardindi, bædi þegar hún hrakin var út af Jerúsalem fordum, undir eins og musteri hennar var í grunn eydilagt, og ávalt sídan, þessi þjód, seigi eg, hefur þó eingu ad sídur vardveitst, enda hún útdreifd sé vídt og breidt medal allra þjóda á jørdunni; og hún er vid lídi, til eins furduligs kénniteikns um uppfyllíngu ritníngarinnar spádóma.

Á líkan hátt sjáum vér rætist hafa þá spádóma, sem nýa testamentid — einkum opinberunarbókin, inniheldur, í tilliti christiligrar kyrkju. Rétt eptir þeim bendíngum og fyrirsøgnum, sem þar finnast, hefur kyrkjan lída mátt árásir sinna fjandmanna, í gégnum umlidnar christindómsins aldir.

Verliga sjáum vér þar afmálada þá ramspiltu róm: versku kyrkju, sem eina hórkonu drukna af blóði vottanna Jesú (op. 17, 5. 6.) Líkasvo páfann (edur réttara sagt pápadóminn), fyrirspáðan af postulanum Pauli, undir nafni Mans syndarinnar (2 Tim. 2, 3—12.) Í stuttu máli, roksemdir á roksemdir ofan mæta oss á hverju blaði biblíunnar, sem bera þann ljósasta vitnisburð, fyrir vorum eyrum um, að oll heiløg ritníng sé skrifuð af góðum Guðs mønnum, sem tøluðu, eins og þeir innvortis tilknúðir vóru, af heiløgum anda.

## Alyktan.

O þú blessaða bók! þú gáfa þess eilífa kjærleika til mannanna! Guð gjæfi sála mín reyna mætti þann almættis krapt, sem í þér fólginn er! Uppfræð mig sjálfur, þú heilagi Guðs andi! sem uppfræddir spámenn, guðspjallamenn og postula. Láttu sérhvørn þánka hjarta míns, vera undirgéfinn þínum vilja! Sýn mér hvað syndin er andstyggilig, hvað þitt heilaga løgmál er strángt, og hve stóra þørf eg hafi á einu fullgyldu réttlæti, til að réttlæta sálu mína. Sýn mér, hve ógyldt og fánýtt mitt eigið réttlæti sé; en aptur á móti, hve fullnægjandi sé Jesú réttlæti, er sérhvørjum trúuðum tilreiknað verður. Géf mér að þekkja, hvørsu allir Guðs eiginlegleikar sambljóða, til þess að frelsa syndarana, fyrir Immanúels blóð. Veit mér vel

að skilja þessi mikilvægustu sannindi, svo sem opin- beruð í þinna orða ljósi, og síðan að bæta þínum innvortis vitnisburði við allar þær útvortis rök- semdir uppá sannleika heilagrar ritníngar; svo að jafnvel þó sála mín hlyti að hrekjast í öldum hinna óttaligustu útvortis freistínga, að þessi innvortis vitnisburður tapist henni þó aldrei. Já þú sann- leikans eigandi og vauttrúar synir storma uppá hana, lát samt allar þeirra tilraunir til ónýtis verða. Lát aldrei þeirra lærdóms flækjur lukkast, og sálu mína aldrei forttapast, eins og það er ómöguligt að Guðs orð kunni að bregðast.

Yfir þessari hellu skal mín trú að eilífu óbrestuð standa, og "port helvítis" skulu alls ekkert móti henni megna! Veit mér það, o Guð! fyrir Jesúm Christum. Amen!

---

## Um Guðsorð
### (eptir Gellert).

Guð er mín hlíf; orð hans eilíf átreystir sálinn feigin. Geing eg nú hér, Guð! fyrir þér, sem glötun ver, í trú, en skoðan eigi.

Satt er orð þitt; sedji það mitt sinni með krapti giæða. Bið auðmjúkast, lát ekkert last né lífs aðkast, helgri frá trú mig hræða.

Hver lénti þá liós jørdu á, ef lærdómur orda þinna táldrægi mig? svo þeckti' ei þig, né þinn lífs stig, vissi' ei þér vyrdíng inna.

Vel útskýrir ordid þitt mér ódaudleikann og lífid. Svo dygd giæti' æft tímaskeid tæpt tilreidslu hæft eilífdar, er mér géfid.

Þitt giædsku ráð, sem gétur afmád gialdþúnga synda minna, þeckti eg síst, ef þín ei lýst því hefdu víst ordinn, sem fsgnud inna.

Ei þarf eg mér srvænta hér, þá ángur vill lasta beigia; forlætur þú og frædir nú svo fær í trú andi minn Abba' ad segia.

Ad betra míg en elska þig, ydka eg sálu mína: Af eigin dád þess gét ei gád; gnógligt hialpræd þín ordin þartil syna.

Drottinn! vor hlíf, ord þín eilíf oss géf til lykta kiærstu; sén þaug oss eitt sæluhnoss, þá færir kross styrkur til heilla hærstu.

---

Kaupmannahøfn 1818.
Prentad hiá Þorsteini E. Rangel.